þvi tæpt hann trijde? til Skipsins geingu þo.

Ord sitt og Bws-Raad bæde, blesse oss Jesus hrein, so Lijfs og Saalar Fædi, sedie þaa hvern og einn; Siaa til eg socktve eigi, i Synda Daudann hier, helldur ad hiaalpast meigi, halldtu vid Trwna mier.

## VI.

## Umm þann sem blindur var fæddur.

Joh. 9.

Ton, Fadir aa Himna Hæd.

JEsus fraa Juda Lijd, wr Jerusalem eitt Tijd, utgieck saa oll Mein grædir, umm þad Johannes rædir

Sat Madur, Sioonlaus þar, saa blindur fæddur var, hart nærri Herranns Vegi, aa helgum Sabbatz Deigi.

Læriseinar hann sica, so spurdu Herrann þa: Hvort eiginn mun Illska hanns vallda, eda Forelldra giallda?

Hvorki kvad Herrann sniallt, hann sijn nie þeirra gallt, Guds Verk eiga augliijsast, og aa honum ad priisast.

Verk Guds mier vinna ber, viist med-

ann Dagurinn er, Idiu Mann aungva fremur, yfir þa Nootinn kiemur.

Jeg er Lioos Heimsins hreint, Herrann taladi beint, medann Umgeingni mijna, hia Monnum læt eg skijna.

Herrann þa hrækti a Jord, heilnæm vard Lækning giord, Saur hrærdi samann ad Bragdi, so vid hanns Augu lagdi.

Hann baud þeim blinda þa, i Brunni Siloa, þvo sier skiootlega skylldi, ef skijra Sioon ødlast villdi.

Hann gieck og giordi svo, greitt nam sijn Augu þvo, heilskygn kom þa heim aftur, Herranns þvi olli Kraftur.

Natturann borinn blind, bleckt er af margri Synd, minn Jesus mig upplijsi, mier a Hiaalpar-Veg vijsi, Amen.

## VII.

## Umm Lazarum af Dauda uppvaktann.

Joh. 11.

Ton, Tunga mijn af Hiarta hlioodi, etc.

Johannes seigir med soddann Hætti, siukur Madur eitt Sinn la, Lazarus,

þad

Þad Sorgum sætti, sa var i Bethania, Systur Tvær er inn hañ ætte, Ouur nefnast Maria.

Hun var þad sem Herrans Fætur, hentuglega smirta ried, Hære siinu Svañinn mætur, siidañ aftur þurkar med, Ordi Liifsins gaf ad Giætur, i Gudspiallinu so er tied

Martha einnig Onnur heitir, Ord Drottinns hiellt sier ad, Lausnaranum sem Lækning veitir, lietu seigia þegar i Stad, sa þu elskar Soottinn þreytir; Svaradi JEsus uppa þad:

Ecki er soddann Soottinn eina, send honum til Dauda fyrst, helldur ad Drottinns Diirdinn hreina, Dæsamlega augliisist, oll þau Systkyn eg mæ greina, elskud voru þo af Christ.

Dagana Tvo þar tefia riedi, tilsett var þad Herrans Raad, ad Vilia Guds sin Skickun skiedi, hann skamtar Tiima af sisi Raad, Fylgdar-Mønnum Frelsarinn tiedi: Forum nu a Gydinga-Laad.

Postular svara med Gegndar-Gilldi,

giorla sem aa þessa Lund, Gydinga Foolk
þig grijta villdi, þa gieckstu þar um eina
Stund; Hvar fyrir gyrnist Meistarinn
milldi, meir ad koma aa þeirra Fund?

Tijmiar eru Toolf i Deigi, táladi Spek-
kinn Guddoomlig, Byrtu nioota Mad-
ur meigi, mun sa gaanga riettann Stig,
hinn sem Lioosid hefur eigi, hrasar oft og
meidir sig.

Lazarus vor Vinur sefur, vekia fer eg
aftur hann, þeir seigia: Batnad honum
hefur, Hvijld og Værd ef finna kann, þen
ann Skilning Paankinn giefur, þeim um
Svefn naatturlegann.

Lausnarenn þeim lioost nam giegna, La-
zarus daudur er til Sanns, enn eg fagna
ydar vegna, ad ei var eg þar i Bygdum
Lands, vær skulum þetta framar fregna,
sorum nu og vitium hanns.

Thomas Possule took ad seigia, Tvij-
bure saa nefndur var, Lærisveina Hug
nam hneigia, hann gaf fyrir alla Svar,
laatum oss fara og lijka deya, lioost med

honum

honum einnig þar.

Kom med Guddooms Krafte hogum, Christur til Bethania, Lazarus fyrer Fiorum Dogum, framlidenn i Grofennelaa, wr Borg og nafnum Bygdarlogum, bar ad marga Gydinga þa.

Þessir giærtu goodrar Skylldu, gingu i Sorgar-Hwsid inn, Gied-Svolunar Maali milldu, mælltu, so eg ritad finn, hrelldar Systur hugga villdu, harmandi eftir Broodur sinn.

Martha heyrdi Meistariñ skæri, milldur kiæmi um þetta Skeid, og i Naaud ad vijsu væri, villdi gaanga heim aa Leid, mooti honum fraa eg hun færi, fyrst, enn Maria eftir beid.

Angrud JEsu Andsvor greidir, ef þu hefdir verid hier, Broodir miñ (þvi Naudinn neidir), nu lifdi saa daudur er, enn eg veit hvar um þu beidir, allt mun Drottinn giefa þier.

Aftur JEsus ansa nædi, upp skal rijsa Broodir þiñ, vissulega Vijsid tiædi, veit-

og af þvi HErra minn, hann mun verda Lijfs
a Laudi, þa liooma efsti Dagurinn:
Upprisann og eirnig Lijfid, er eg sagdi
JEsus þa: Uggalausir um þad bliifid, aller
sem mig trwid a, þo fundid hefdi Helar
Riifid, hvor mier treystir, lifir sa.
Sa hier lifir enn med Anda, og a mig
treystir Heimi i, hættulegt maa Hel ei granda,
hann skal verda Dauda frij, svipturr
ollum Saalar-Vanda, seigdu mier, ef trwir
þvi?
Trwi eg þu sierl, kvad Svanninn grætti,
Sonur Guds med helgum Sid, og Christur
sa sem koma ætti, ad kvitta af Syndum
Mannkynid. Samtal þeirra ad Sinni
hætti, so skilldest hun HErrann vid.
Martha hrindir hordum Meodi, heimleidis
med Skyndi fer, vid Mariu giordi
mæla i Hlioodi, Meistarinn er kominn hier,
bydur þijn sa Grædarinn goodi, og gior-
ir Bodskap eftir þier.
Uppstood Maria og med Skyndi, utgieck
fraa, þeim Mwga Manns, sve hun
dijrst-

dyrstann Drottinn findi, dundi Vatnid Hvarma-Ranns, þa var JEsus þijdur i Lyndi, þar sem Märtha kom til hanns.

Foolked sier ad fliott wr Maata, fraa Þeim vijkur Giefne-Lijns, allra þeirra ein var Gaata, sem Esnid greinir Hroodrar mijns, eflaust wt hun gieck ad graata, hiaa Grofinni hanns Broodur sijns.

Til Herranns kom med Hrygdar-Talid, Hiartad mæddi Sorginn stinn, Angur i Briooste sann hun falid, fiell aa Knie og rædde um Sinn: hefdir þu hiaa oss Drottinn dvalid, daudur væri ei Brooder minn.

Þegar hann saa ad Sorgar-Plaata, snart um hennar Briooste laa, Foolkid allt i annann Maata, angrad leit þar standa hiaa, Sonur Guds took sialfur ad graata, J sijnum Anda gramdist þa.

Sijn aa mille margur rædde, maa nu siaa hanns Elsku-Gied, saa sem blindann giörla græddi, gat hann ecki vid þvi sied, ad Daudenn so yfir einn Mann æddi? Almwginn þad mæla ried.

Lazarus hvar lagdur være, Lausnaren̄ so spurdi ad; en̄ þeir svara so sem bære: Siaa þu, Herra! þeña Stad. Myskun trwe eg Hiartad hræra, hrigdist JEsus en̄ vid þad.

Til Gräfarennar Herrann hreine, hier nærst sialfur gaunga vann, hun var byrgd med stoorum Steine, strax baud þeim af-taka hann; so þeir giördu, sem eg greine sagdi Martha þa vid hann.

Lijkid fin̄ eg swlna um̄ sijdir, Fioora Daga hier þad laa, Ordum þessum Herr-ann hlijdir, henni aftur giegndi þa: sagdi eg ecki ef þu trijdir, ad þu mundir Guds Dijrd siaa.

Til Himins leit þa Lausnarinn millde, lofud sie, Fader! Giædskan̄ sw, hvers eg af þier oska villde, um þad mig bænheyrir þu; eg tala so Foolkid trwa skyllde, til þeirra mig sendir nu

Lausnarinn kallar lieosum Hlioome: Lazare! þu kom hier ut. Hinn Daude hlijddi Drottinns Roome, doprum reyrdur Lijk-bands Hnwt, leysid hann, kvad Herrann

froo=

froome, so hiedann gaangi fyrdtur Swt.

Judar marger trwa tooku, Tæknid slijkt er saau þeir, liwsum Jesu Lotning jooku, Loss-Tijr þessi alldrei deyr, Phariseæarney Svika klooku, sig forherdtu æ þvi meir.

Þvi eg treysti, og þad er mijn Trwa, þu ert JEsu Lijfid mitt, þa hiedann burt fraa Heim skal snwa, helld eg mier vid Ordid þitt, Saalunni virdstu Sælu ad bwa, so hun verdi af Naudum kvitt.

## Stutt Jnühalld Pijnuñar og Daudañs DRottiñs vors JESU Christi.

Ton, Strijds-Meñ þa høsdu krossfest Christ.

HJer er af Hiarta Miñisstædt, Myskunar-Verkid þad, JEsus var staddur i Hrygdum hætt, harmandi Prisvar bad, Gydinga Lid þo geingi ad hrædt, greip hann og batt i Stad, Saalinn hanns var af Sorgum grætt, saar Pijnann gieck þar ad.

Hann hefur dreigid hrakt og hriaad,

Hardsviijrud Juda Droott, med Lygum Spotti, Hroop og Hæd, hrækiandi a hann skiott, var henum hvorki Værd nie Rad, veitt um þa dimu Nott; allt hann fordæmde Audlegt Rad, ei gieck su Rædann hliott.

Heidnum Doomara i Hendur fieck, Herrann sw grima Piood, Almuugenn framm þar allur gieck, æpti med samfelld Hlicod: Fær hann a Kross og Kvala-Beck, kome yfir oss hans Blood, Mordingia Lijf-Giof meir var þeck, mieg hætt þa Kvolinn stood.

O hvad Grætlegt, Aumkunar verdt, eitt var sem þar til bar, vid hardann Stoolpann streingdur þvert, stood vor Lausnarenn þar, hærsta Guds Sonar Holldet bert, hwdstrijkt med Svipum var, Ædar, Skinn, Horund og so skiert, Oskaddad fannst ei par.

Þyrne-Koronann Svida-saar, sundur hans Enid sleit, Blooded uu pfyllti Augunn klaar, og allann Sioonar-Reit, Frelsarinn hædi solur og blaar, Forsmaan hverium hann

leit, Last Ord, Sløg, Spielne, Spott og Daar, sparade ei Præla-Sveit.

Trie Fimtan Foota laangt var lioost, lagdt a hanns Herdar hardt, breidt Fiogra Alna þrwngt med Pioost, þad herma Bækursatt, uppgefinn var med ormædt Brioost, undir þvi Prisvar datt, um sijdir fram þa Ferdinn droost, a Fiallid Golgatha bratt.

Særdur i Kullda klædlaus þo, Christur satt laanga Tijd, a medann øll til Bodullinn bioo, Bana-Verkfærinn strijd, ordþyrstum Munni einn ad droo, Edik Gall-blandad Nijd, oddbrotna Nagla Olldinn sloo, I Hend og Foot um Sijd.

Krossfestann hæddu Hofdingiar, og hver er sem þar gieck hia, Harmkvæli þung og Hæadung bar, Herrann um Tijma Pria, sijdann burtslitinn Saalinn var, Syndlausu Hølldi fraa, Hiartad særbeittur Broddur skar, Blood og Vatn rann wt þa.

Last-Ord og Briixl framlidinn fieck, Falsara sogdu hann, Flockur Prestanna

fyrir þvi gieck, fundu Lands-Doomarann, bæduad geimd sie Grofinn þeck, gánga so ella kann, Læristveinarnir fylltir Fleck, flytie i burt Lijkamann.

Hermenn vopnada, hann liet strax, hallda miøg sterkan Vørd, þar vakte inn til Þridia Dags, Piooden su Illsku hord. Drottinn reis upp til Dijrdar Hags, fra Daudum þegar ur Jørd, og sannrar Guds Dijrdar Samfielags; sie honum Þackargiord.

Gleym þessu ecki Saal mijn sæl, soddann vel merkia skallt, Sonurenn fyrir sekann Præl, saklaus leid þetta allt, slijkri hanns Elsku hroosa og hæl; af Hug og Muni sniallt, Sigur Vers Christi syng og mæl, sætt fagnande ævallt.

Liwfasti Jesu Lof sie þier, sem leidst þann saara Deyd, hvar med þu hefur hiaalpad mier, ur hættri Kvøl og Neyd, laat þu mig jafnann lifa sem ber, Lasta-Bond af mier greid, Elsku Fadm þinn, þess Oska eg hier, yfir Saal mijna breid. Amen.

## Ut af Upprisu Historiunni.

Ton

Ton, Giædskriikast Gradari min, etc.

HIartad fagnar og Hugur minn, Herrann JEsus er upprisinn, Kvol þo aa Krosse ætti, aarla Sunnudags er þad skied, aadur enn Soolin lijsa ried, af Guds Dijrdar Almætti, þijdur, frijdur, Eingell kiemur, Kraftinn fremur, klaart eg greini, af Grofinni velltir þeim stoora Steini.

Jardskiaalfte mikill skiedi þar, skiærasta Liooma Eingill bar, Vardmenn þa soddann saau, Otta miklum yfir þa sloo, Abl og Styrkleika fraa þeim droo, lijka sem dauder laau, þegar, Vegar, Lioosid skapta, Lijfsins Krafta, loksins feingu heim i Borgena hryggver geingu.

Hofud-Presta na hittu senn, hermdu oll þessi Tijdenden, hiner þeim hietu Gaasum. Seigid ad Lærisveinarner; sooktu Lijkamann burt med sier, þegar vier þreytter svaasum; hradir, gladir, Giálldid þyggia, þar ad hyggia, sijdann sogdu, lijka sem Judar þeim Raadinn logdu.

Adur enn Dagurinn upprann klaar, utgeingu af Stadnum Kvinnur þriaar, Ma-

ria Magdalena, Mooder Jacobs hinns minna var, med þeim lijka Salome þar, þær hugduſt Chriſto þiena, hryggvar dyggvar, Lauſnaraus villdu, ad liwfri Skylldu, Lijkid ſmyria, hvor ried adra þa hliodtt ad ſpyria.

Hvor mun burt vellta hordum Stein? Hindrar ſaa oſs aa marga Grein: þegar ſem litu þaangad, opinn ſtood Grof, eñ Eingill var, alhvijtu klæddur Lijni þar, Hrædſla ried Hiartad fanga, hliodar, moodar, hryggvar Kvinnur, ſagdiſviñur, ſyrgid eigi, uppriſiñ JEſum eg ydur ſeigi.

Kviñurnar gladar geingu heim, Græd-arinn JEſus mætti þeim, ſeigiandi: Verid ſælar, þær fiellu ſijdañ fram til Sanns, at Fætur kyſtu Lauſnarans, hann ried hijr-lega ad mæla: Eg bid, ad þid, mijnum blijdum, Brædrum þijdum, braatt þad innid, i Galilæa þier fyrſt mig finnid.

Magdalena aa medann fer, miog fliott þaangad ſem Petur er, og Johannes med honum, ſagdi Lijkamañ ſælaſtañ, ſiaa hv-

orgieg nie finna kann, burt-tekinn væri hann vönum: Bædir, þiædir, undrast þetta, er þad frietta, og ænn Tafar, wt þæng-ad geingu nu øll til Grafar.

Fyrstur Johannes frammkom þar, for-nam ad Grøfinn opinn var, Petur þa greitt inngeingur, sæu þar logd Lijn-Klædinn mi-wk, lijka og JEsu Sveita-Dwk, For-undran af þvi feingu, allskioott, og fliott, aftur snwa og þvi trwa, ollu ad sosu, burt muni Lijkid borid af Mønnum.

Æpandi Maria wti stood, inn i Grøfina horfdi Fliood, Einglum Tveim gaf ad Giætur, vard hun nu hrædd, og vidleit þa, Vaktarann Gardsins hugdist siæ, hann spyr strax, hvad hun grætur? Hun kvad, hellst þad, minn Herra þijdur, Hiartans blijdur, hier finnst eigi, Efnid Sorgar eg þad seigi.

Hafir þu borid hann burt med þier, bid eg ad Herra seigir mier, svo eg hann þæn-gad sæki, Madurinn svarar: Maria, Meistari sagdi hun aftur þa, ei leysdi æ sier tæki, oll Hryggd og Styggd, sniist i

Gledi,

Gledi skiott þad skiedi, er Christum kiendi, heim til Postula hana sendi.

Hun kom strax og þeim kunngiørdi, Christur af Dauda risinn sie, Adburdi alla sagdi, hinar Konurnar hermdu med, hefdu þær lijka JEsum sied, Lijfs og i Liwfu Bragdi; Þetta rietta, Willu hielldu, Hug sinn hrelldu, Herranns Sveinar, Sioonhverfingar þad søgdu einar.

Til Emaus geingu einir Tveir, umm HErranns Pijnu tala þeir, þad skiedi aa þessum Deigi, enn so til bar sem seigi eg fraa, sialfur JEsus naalægdist þaa, þo ad hann þecktu eigi, hann spyr, Hugkyr, hvada Hialid, Hryggdar-Talid, hafid Brædur, Cleophas ansar med klockri Rædu.

Ertu einn so Okiendur Mann, i Jerusalem ad Giørning þann, sem er fyrir skommu skiedur, veitstu ecki? Enn hann spyr ad: Honum Cleophas sagdi þad, JEsus, sem oss var medur, hædstur, ætstur, af Spaadooms Ordum, og Giædsku-Giørdum, fyrir Gudi og Mønnum, aa Krossi deyddur,

þad

þad siaalfir sonnum.

Enn nu i Morgun aarla viist, aadur enn sieck af Deigi lijst, Kvinnur fraa oss wtgeingu, lisant a sogduust lijta hann, lijklegt þad eingum virdast kann, Felmtur þvi allir feingu, Heimska, Gleimska, kvad þaa baada, Kongur Daada, kienndi siidann, Christur so hefdi hlotid ad lijda.

Alla Ritning wtleggia ried, opnadi þeirra Hugskot med, Skristina gloggt so skilia, Kauptunid allir naalgast nu, nær þvi endud var Leidinn su, gaanga lietst leingra vilia, beiddu, neyddu, Christ ad bijda, kvaaddu lijda, aa Kvolldid nærsta, inn med þeim geingur Mildinn hærsta.

Settist til Bords og Braudid þar, blessadi sem hanns Sidur var, og siidann ad þeim rietti, baadir i Senn hann þecktu þaa, þeirra Sioonum hvarf burtu fraa, Harmi ur Huga liett, hradir, gladir, Postulum hinum, Herranns Vinum, hier fraa sogdu, e ngann Trwnad þeir aa þad logdu.

A somu Stundu þad so til bar, siaalf-

ur JEsus var kominn þar, og midt i Midid stendur, þeim Oskar Fridar þessu nærst, þaa var Dyrunum aftur læst, siaa liet aa sijnar Hendur; Enn þeir, þvi meir, urdu feignir, Ottasleignir, og þvi trwa, Great riedi ollum i Gledi sinna.

Ecki var Thomas þaa med þeim, enn þegar seirna hann kom heim, þeir sogdu allt hid sanna, alldrei trwi eg, hann ansa ried, utann ad Nagla-Foriñ sied, saai med Fijngri kanna, lidu, bidu, Atta Dagar, Dijrd so hagar, DRottinn sætur, ad luckunt Dyrum kom milldur, mætur.

Hiaa þeim stood Herrañ hijr i Mid, hier nærst Thomam so rædi vid, og vill hañ verdi gladur, i Naglaforinn lææt Fijngur þiñ, fliott legg mier Hond i Sijdu iñ, vert ecki vantrwadur: DRottinn, Gud minn! sagdi dyggur, Trwartryggur, Tvijburinn frijdur, aftur JEsus þaa ansar blijdur.

Sannlega Thoma trwdir þu, Tilsijnd mijn þessu olli nu, og eg enn framar seigi: sæll er saa hvor mig sier ei hier, samt þo af

Hiar-

Hiarta treyſtir mier, Huggun ſo hlioota meigi. Fleiri, meiri, Jardteikn hrein, fyrir ſijnum Sveinum, ſijdar giordi, oll þo ad greind hier ecki verdi.

Vid Genezareth Vatnid brætt, voru þeir þa ad Fiſkidrætt, eñ ſig opinberadi, Petur adſpurdur Priſvar þar, þvi jatadi, ſem vonlegt var, ad hann JEſum elſkadi, biidur, þiidur, Lijffins Braudi, ſijna Saudi, Simon fæddi, uñ hanns Dauda og Utfør ræddi.

Fiørutiju Daga DRottinn ried, dvelaſt hier Læriſveinum med, eftir Uppriſu ſijna, til Himna ſijdann hiedañ ſtie, hvar Hond Fødurs Almættugre, ſitur vor Hiælpinn hijra: Amen, Amen, allar Tijdir, loſi Lijdir, Lauſn arann gooda, honum ſkal jafnann Heidurinn biooda.

* * *

* *

*



# Añar Parturiñ.

Jñihelldur nockra Gudrækilega og Andrijka Psalma.



## FYRSTJ FLOCKUR,

Sem hefur i sier tvo Nijaars Psalma, Einig Kvølld- og Morgun Loffsaungva, og eiñ Siwo-Ferda Psalm.

## Nijaars Psalmur, Kvediñ 1652.

Undir þessum Nootum.



Arid hyra nu hid nija, Nædar good-
Þrautir leatt fra oss flija, farge Sorg-



ur sendi Landi voru Gud,
um, endi Grand og eydi Naud.

Alla



Alla fylli Gledi-Giædum, Giædska os



Myskun DRottiñs blijd, i fastri Ast og



Frid af Hædum, stoduger stædum, oss



hann blessi Ar og Sijd.

Jesu prijsad Nafn eg nefne, nijtt Ar þetta komid Heimi, Vijge er best, stirki Verk ög stofnud Efne, stydie, græde, auma geyme Mildiñ mest; Barn umskorna, dijr-

um Dreyra, dreyfi yfir Hiortunn mædd; Synda-Grand og Farid fleira, fiær ad keira, virdist Dijrdinn Giædsku-giædd.

Nijtt Ar þetta gledilegt greide, Gud a Hædum vorum kiæra Kiennidoom, Sause fæde, Lijdenn leide, ad life i Hoofe, giori og læri Verkiñ froom, Hiordiñ verde hlijdug Rædum, hollum ollum þeirra mest, vaxe flugs ad frijdum Dædum, Frid og Nadum, ut so rætist Bondskann vest.

Yfir-liwsa-Menn a minnist, Milldi-Valldur Drottenn Mattar Herra hær, Sida prwdir Sannleik kynnist, Synin-um þiooni, lietti Þrætt og Brædinn sær, oll i Stilling Logeñ lage, liwfir giæfir Frooma vid, Lasta sijst þo Veigi væge, hneige Hage, ad gooder Lijder finne Frid.

Rauner Hioona miwkust mijki, Mijskun ferska Grædarans Lijda fyrr og sijd, Þolgied helgad vake, vijke Vijled, Boled, Naudeñ, Kvijde, hverfi Strijd, Borneñ einig blijdur nade, og Blessun vissa leati sia, Faderiñ Dada i Fridar Rade,

leidi

leidi a Lande, med Lijfi og Giæfu, stoora og smaa.

Ydur Gledi Arid hijra, ollum Heillum giefi vafid JEsus kiær; Meñ og Kviñur klaara, skijra, Christi Ast þier liwsa hafid fyrr og nær, undir Hendi hvijlld sælir, Heilla fullri Drottiñs hier; aungvañ Angurs Kulid kiælir, Taal nie tælir, þañ af heñi hulin er.

Oss nu blessi Grædarann goodur, og Gaafur liwfar sijnar hreinar einnig med, Laaded, Lodur, giæde Groodur, giæst sie Lopt, ei pijne neinar Plaagur Fied, nytum ætijd lijtilaatir, Losid giefum Drottiñs Naad, i Gudi blijdum kiætunst kaater, mætast Maater, Holl þau aller reine Raad.

Kaste vestu Kostum Lasta, Christur bestur, hærstur, mestur Foolki fraa: Vijst so Trausted festum fasta, fyrst og sijdst þeim glæsta Giesti ætid aa, Ast þijdasta Briost ei bresti, bystur Pioostur horfinn sie; geistum Lasta Gusti fresti, Losta Lestir, flestir nærsta falli i Hlie.

Unni sannur oss og blessi, ollum Heillum

fylli sæll Emanuel, J Kvijda, Naud og Krossi hressi, þa Kvilla-fullum vill odæll hier vinna Viel; Svinner Menn og myndug Kvende, mættugann ORottenn losid tijdt, honum einum oss afhende, Amen; sende, Ydur JESUS Ared blijdt!

## Aňar Nijaars Psalmur.

Ton, Þeck sie hier good giörd, etc.

FRed nijtt nu æ, J Nafni JEsu sæta, byriast blijdt; Þu þaa, þess vel skyllder giæta, segiast vijdt, sw maa sælu Fregninn mæta, sem Bol kann bæta.

Gud og Mann, Mooder, Mey i Heiminn fædde, vorn blijdann Brooder, sem best öll Meininn græðde, Heimsins hann Þiooder, helgri Blessan giædde, þo adur Eymd mædde.

Foolki Frid hreinann, fieck af Dijrdar Mætti, og Gud vid Einann, allt Mannkynid sætti, Sælu Sid beinann, sijndi og Hiartad kiætti, Brot Synda bætti.

JESUS hann heitir, Hiaalp og Frelsun Lijda, Sælu sannveitir, og svipter öll-

um

um Kvijda, um̃ Logmaals Bann breytir, Blessan giefur frijda med Mysckun blijda.

Nafn þad sett sanna, Sælu og Gledi særir, Hormum Hættanna, haglega forsærir, alla Ætt Mañа, endurlijfgar, nærir, Sorg þa ei særir.

Arid nijtt Nafn þitt, Naadar Herrañ goodi, giefi oss blijdt, Gagn sitt, i glødum Fride bioodi, nækvæmt, þijdt, vid Naud kvitt, so notkist Mañi og Flioodi, Laan og Lijfs-Groodi.

Himin, Laad, Haf, Flood, hverja Skiepnu og eina, Foldar-Saad, Fiar-Siood, og Frioofgun Landsins hreina, blessi Naad Guds good, og Græding veiti beina, aan Moods og Meina.

Kyrkiu-Stiett kiæra, Kieñimeñ i Landi, laat oss riett læra, Lifnad sinn hvor vandi, so uppsett skiæra, Sannleiks Skin liooмandi, stillt jafnan standi.

Skickun Lands-Laga, Lids og Stioornar Raada, Yfirmanns Aga, til ædstu Heilla Daada, virdist hañs haga, Hond-inn Lijknar braada, er eiñ allt maa naada.

Hiooninn, Hiw, Born bliid, Bæi og Liid um Grundir, Hond JEsu, fræg friid, fridi a allar Lundir; Vor sie trw Vernd þiid, Vængium Drottins undir, Liifs længar Stundir.

J Hausta og Hrigd kvolldum, Herran Jesus vægi, i Otta og B.ygd olldum, Aftinn Drottinns hægi, i Striidi og Stygd voldum, Styrk veiti, so nægi, og allt vel lægi.

Vid Hreckia Haad-Syndum, hliif oss JEsu bliidi, fra Huga braad-blindum, Brædi, Heipt og Niidi, Slæpa graalindum, Gudleysingia Liidi, Roog, Raani, Striidi.

Himins Hnoss snialla, helgast Meyar Sæd, oss geymi alla, fra Ovina Vielrædi, kunnta Kross falla, so kreinkia Hiartad nædi, Guds Naad þad grædi, Am.

## Morgun Psalmur.

Ton, Eirn Gud Skapari allra saa, etc.

A Morgna þegar aarla uppstaa, eins at Kvolldinn þa hvijlast a, gief eg mitt Lijf

Lijf og lijka Ond, liwfe Jesu, i þijna Hond.

Saalinn hvijlist og huggast mijn, Herra JEsu, i Benium þijn, bid eg sætaska Blodid þitt, blessi og helgi Lijfid mitt.

Christe, sem þolder Kvol og Pijn, keyptir mier Frid med Bloodi þijn, i Voku og Svefni vert mier hiaa, vernda mig ollum Haaska fraa.

Guds Eingla Skari skijli mier, so skadi mig ecki Dioflarner, i mijnum Krosse og Medlæte, minn DRottenn JEsu hiaa mier sie.

Hvert helldur lise hier eda dey, Hiartad mitt vid þvi kvijder ei, gladur þvi mijna gief eg Ond, Gud Sannleiksins, i þijna Hond.

## Kvolld Psalmur.

Med Himna kag.

LYknsami Gud og Herra haar, hvørs Walld og Maktum Eilijfd staar, Vier bidium i JEsu Nafninu, Naadar-Heyrn þinni til vor snw.

Lioosid Dagsins enn dregst oss fraa;

dyminu Naatt Myrkre yfir braa, Lijkaminn Hvijlldar leita sier, Liettir Piaaningar Svefninn er.

Packargiord blijda Børn þijnnu, biooda þier øll med sannri Trw, þockniſt þier, Fadir, Foorn ſu viijſt, fyrir vorn Herra JEſum Chriſt.

Lof ſie þier Gud fyrir lidinn Dag, Lijknenn þijn good vorn aumann Hag, verndad hefur fraa Hrigd og Neyd, Haaſkaſemd Lijfs og braadum Deyd.

Forlaat þu oſs nu Fadir kiær, Fiollda Synda, ſem giørdum vær, leind og opinnber Afbrot vor, [illegible] nu hiin Giæſk-ann ſtoor.

Erfide vort og Vinnulag, vier ſem nu høfum giørdt i Dag, efter ſierhvørs Mañs Embætte, i Jeſu Nafni bleſſad ſie.

Gief oſs nu Drottinn gooda Noott, geim og vernda fraa Kvol og Soott, fraa braadum Dauda og heiſkri Pijn, bevare oſs alla Naadinn þijn.

Freiſtingum Diøfuls fraa oſs ſnu, Forintur

injur vondar burtrek þu, Oværdar Drauma, Ogner þær, alldrei læt þu oss koma nær.

Læt þu oss Dagsins Liosmann hiñ, lijta ad Morgne, Drottenn minn, so med Fagnade þioonum þier; Þess nu af Hiarta osskum vier.

Gotz, Heidur, Lijsid, Æru og Ønd, O! DRottinn Gud, i þijna Hond, befolum vier med traustri Trw, til vor Næd þinne jafnann snu.

Guds Fødurs Millde, Giædska og Næd, Guds Sonar JEsu Hiælpar-Næd, Guds Heilags Anda Hiijsoinn traust, hiæ oss stadnæmist endalaust.

Heilog Guds Þrenning hlijfi oss nu, og hallde fast i riettri Trw, ad hliootum sijdann Himna Vist, Hiælparañ fyrir JEsum Christ.

Amen þess aller osskum vier, Amen, vor DRottenn, Lof sie þier, Amen sie þad sem eg nu bad, Amen: JEsus bænheyre þad.

## Añar Morgun Psalmur.

Ton, Eilijst Lijfid er æskilegt, etc.

LOfi þig Drottinn Himininn haar, og Heilog Engla Sveit, allar Þioodir um allar Kraar, allstadar Lands um Reit, þvi Sannleikann þinn og Miskun mest, Mildi og Tigninn klaar, yfir oss øllum er stadfest, eilijfa Tijd og Ar; so er og lijka Saala myn, sonn og fullkomnn Skylda þijn, Lof Drottinns bædi haatt og hloott, aa hvørri Stundu ad tiaa, alldrei laat þier þad gleymast gott, giefins sem liet þig faa, hann hefur uppaa nijtt i Noott, Naudum þier biargad fraa.

Lofadur siertu lifandi Gud, fyrir lidna Nætur-Stund, og þad Verolldinn upplioomud, er nu af Dagsins Fund; Soolinn i Heidi skiærtt skijr, Skinid sitt veiter hlijtt, Fuglar Loptsins, Fiskar og Dijr, fagna þeim Geisla blijdt; Skoog-Trien Grosinn og Liliur Lands, lifna og glediast vijst til Sanns; þetta til Dijrdar Drottinn þier, Daglega þioonar allt: Æ hvad skylldara mun þa mier, ad mikla þitt Nafn aavallt, Guds ad Lijking sem giordur er, og giefid Lijfid sialldt.

 Lof,

Lof, Heidur þier og Packargiörd, Prenginn edla bliid, viliugur skal eg vanda aa Iörd, varandi Liifs um Tiid; þu hefur jafnann Hialp mier veitt, wr Haaska og Daudans Pyn; fraa Myrkrunum til Lisdössins leidt: Losud sie Giædskann þijn! Ovina minna Abl og Slægd, afmaad hefur þijn Guddooms Frægd, en þo þeir byggi Esuid vandt, med allri Svika Praa, ad mier þu Drottinn giættir grant, Grimd þeirra bægdir fraa, rangferdugra sem Maadum kaunt, raska, so hvergi naa.

Sem mig i Nott fyrir Lijkn og Lid, lietst niöota Maattar þijns; Eins nu i Dag um Naad eg bid, i Nafni Frelsara mijns; hindra þu Umsaat Andskotans, sem elskar Lijgi og Mord, so verdi sijst ad Vilia hauns, Verk miin, Paankar nie Ord: Giefdu mier Drottinn Hiartad hreint, hyxa og stunda lioost og leynt, Laga-Bod þijn, sem lietst oss faa, og Lijfsins Braut eg skil; i Dag og hvorn Tiid hiedann i fraa, hallda þau giarnann vil, þvi David seigir sæla þaa, sem þar hafa Lijsting til.

Blessa þu, Gud, mitt Kvinnu-Kier, og kiæru Børn a Laad, blessadu allt hvad hefi eg hier hlotid af þinni Naad: Blessa virdstu minn Buskaps Hag, Birgdir og Matar Faung, blessa Utveigi og Vinnulag, so verdi ei Hegdan raung; Blessunar ædsti Brunnurinn, blessadu mig i sierhvert Siñ; Sie eg a Ferd um Sioo eda Jord, sit, geing, edur kirr stend, Hond Þijn yfir mier halldi Vord, Hæska ollum frævend: Gief so med þijdri Þackargiord, þijn Naad sie vidurkiend.

J Forsioon þijna og Fodur-Hond, fel eg nu, Drottinn, hier, Lijkama minn med Lijfe og Ond, Læn allt og Heilsu-Kior; mitt so eg agti Starf og Stiett, stioornadu miñi Lund, hier med eiñig mig halldi riett, a Hryggdar og Gledi Stund; Christni-Halld mitt, Kiærleik og Trw, med Krafti þijnum, O JEsu! auka jafnann og ebla virdst, uppa þad Saal mijn froom, Dijrdarlig fari fyrir þier birtst, þa fer þu ad hallda Doom; kom HErra JEsu, kom sem fyrst, klaart gior allt Synda-Groom.

Daud-

Daudans þegar eg nálgast Nótt, nær dugur vert mier hiá, med bærilegri Bana-Sótt, benda virdstu mier þá, J Fadmi sælum ad sofna þijn, sæti Fadir, eg kijs, Ottalaus er þa Ondinn mijn, og eilijf Gledi vijs: Sijdann i Lambsins Lioома klaar, lofi hun þig um̃ eilijf Ar, þu sem ad allt med Ordi ber, Einn Gud og Þrenning hær, samhuga allir siingium þier, Sigur-Vers Himnum aa; Valldid þitt Dijrd og Æregner, Amen, Haleluja.

## Añar Kvølld Psalmur.

Med Himna-Lag

O JEsu þier sie Þock og Lof, fyrir þijna Ast og Nadar-Giof, vel hefur þu minn veikann Hag, verndad og geymt um̃ þennann Dag.

Slisni eingiñ mig henti hier, Hlijfd Drottinns mijns þad veitti mier, Satan fieck ei ad orka neins, sem Ønd og Lijfe var til Meins.

Jeg vil fyrir þad Jesu kiær, játa þier Vegsemd fiær og nær, af Hiartans Muñi

Hug og Rauſt; halldiſt þijn Virding Endalauſt.

Eilijfann bid eg Almaatt þinn, aſtkiæri Jeſu Herra minn, fyrirgief oll mijn Aſbrot lioot, i Dag ſem framda eg þier aa moot.

Dags-Vinnann mijn, ſem drijgda eg hier, Drottinn minn goodur þockniſt þier, ebli þijn Bleſſan allt mitt Raad, auk mier Von, Trw og Kiærleiks Daad.

Geymdu mig, Drottinn Gud, i Noott, fraa grimum Boda, Kvol og Soott, ſo Ovin giori mier einginn Grond, yfir mier ſie þijn Hiaalpar-Hond.

Luckuna, Heiſſu, Laan og Fied, Lijf og Saalina eirninn med, Umſioon þinni eg allt þad gief, Ohræddur ſijdañ ligg og ſef.

J Drottinns Nafni eg hvijliſt hier, hafdu O Jeſu Gaat aa mier, eg fel mig þinni Elſku enn, og alla þijna Chriſtna Menn.

Lof ſie Fodurnum leſid og tiaad, Lof ſie vors Herra Jeſu Naad, Lof Helgum Anda allann Tijd, Amen, Lof ſie þier Preñing blijd.

Dags-

## Dagleg Andvarpan.

Ton, Hvør sem ad reysir hæga Bygd, etc.

HEilla lijwfasti Herra minn, Hiartans Utvalldra Yndi, uppveki mig nu Andinn þinn, Endurnæring so findi; Eg er Manneskiann aisaurgud, afplaana þad lijandi Gud, gief mier Gladværdar Lyndi.

Aferning minn og Ydiulag, eg þeinkti ad lagfæra, þier til Dyrdar ad þienna i Dag, þad veitstu Nædiñ skiæra; Enn hvorninn hefi eg aum Mannkynd, áreitad þig med margri Synd, þad vyrdstu ad lagfæra.

Lijfdaga minna Lijtinn öll, lækna þu, Drottinn blijdi, og mig hvijtþvaga eins og Miöll, aungvu svo Meini kvijdi; æ mig angrar af allri Root, ad eg giördi þier syndga mót, Heilla Fadirinn frijdi!

Laungar mig nu af Lijfi og Saal, Lausn hiaa þier, Drottiñ, fiña: Þier er nu, Fadir, meir enn Maal, Meinanna Boot ad vinna; Sætasti Bruñur Svolunar, signad Herbergi Vellistar, laat mig þier Lofgiörd iña.

Græd nu öll mijn Synda-Saar, sign-

adar

abar Jesu Undir, Himneska Fodurs Hondinn klaar, hun sie yfir og undir: Okvijdinn er þar Ondinn mijn; i blijdum Naadar Fadmi þijn, lijdi so Lijfsins Stundir.

Riettlætis fagur Kvistur klaar, Konungur Dijrdar sæti, Engla Fegurd um̃ eilijf Ar, Utvaldra Saalar-Kiæti, allra trwadra Elska og Von, er Jesus Guds og Mariu Son: Gief þess eg jafnann giæti!

Innræt þu, Drottinn, Ordid þitt, i mitt Hiarta og Sinni, þad sie Lijfdaga Livosid mitt, Lifnad so bæta kinni; eftir þvi læt minn greidast Gang, i Giædsku þinar og Naadar-Faang, þar so þier Packir inni.

Miskunar þinnar miwkú Naad, mikla eg Æfi mijna, milldasti JEsu Meyar-Saad, minnstu a Barn-Kynd þijña, fadma mig ad þier Fadir minn, fyrir Eingietna Sonin̄ þin̄, læt ecki Lidsemd dvijna.

Set eg nu allt mitt Traust og Trw, til þijn, minn JEsu goodi, ad mig af Ástsemd elskir þu, og a dreifir þijnu Bloodi, æ medann varir Æfinn mijn, wtbreida vil eg Lof-

giord

giord þijn, bædi hiatt og i Hlioodi.
ANDWARPAN þessa, ædsti Gud, ællijttu i Miskun þiñi; Hiaastod veittu i hverri Naud, higg ad Graatbeidni minni; lættu mig ætijd lifa þier, lijka deya þaa burtu fer: Lof þitt alldreie linni.

## Sioo-Ferda Psalmur.

Ton, Nætturañ øll og Edle Mañs, etc.

DRottinn lijknsamur HErra hreinn, Hiaalparinn allra Manna, þu sem ad rædur øllu eiñ, Astsemdar Milldinn saña, bænheyr þu mig, þess beidi eg þig, i blessudu JEsu Nafni, med limfri [illegible] Naad, og [illegible] Naad, um Lijfs og Saalar-Efni.

Þijn Naad þad hefur so tilsett, ad sierhvor skilldi læra, Embætti sitt ad ydka riett, og med Handbiørg sig næra, um Land og Sioo, enn Lidsemd þo, lofadir þeim ad veita, sem treysta þier, og sijdann sier, innar Atvinnu leita.

Nu vil eg eftir Ordi þvi, i Trausti Naadar þinnar, aa Haffsins Bilgiur fara frij, Fædu leitandi minnar; siaadu mig nu, sæ-

ki JEsu! so einginn Hæskinn grandi, til og fraa hier, hiaalpa þu mier, Hættu-laust aftur ad Landi.

Og sem þu giordir aadur fyrr, ostyrk-vum Læriſveinum, þegar Storm-Vindur þeigi kyrr, þagnadi fyrir þier einum, so aalijt mig, nær yfir sig, Alldann og Vedrid bleika, hasta þar aa, og hugga þa, Hiartad mitt Trwar-veika.

Vardveittu mig og Veg minn greid, Vernd þijn yfir mier standi, fraa heyskri Sorg og braadum Deyd, bædi aa Sioo og Landi, JEsus minn trwr, Eymd allri wr, einn kanntu mig ad leiſa, vertu mier nærst, þa hier sem hærst, Hassins Bilgiurnar geyſa.

Stooran Brim-Sioo og sterkañ Vind, stodve þijn Milldiñ sæla, illra Stoor-Fiska ogna Mind, ei laat mig kunna fæla, Vængia Skiool þitt, fyrir Vardhalld mitt, vil eg mier giarna kioosa, so meigi eg frlj, af Faari þvi, Frelsan þinni best hroosa.

Þvi vil eg leystur loſa þig, Lijfſins uñ

Tijdir mijnar, þar heilog Guds Born hallda sig, heidrandi Naadir þijnar; Þack-Offur eitt, i Veikleik veitt, virdstu af mier ad þiggia, eilijf Naad þijn, a Armi sijn, unni mier jafnann liggia.

Jeg geing til Skips i JEsu Nafn, JEsus minn hiaa mier blijfi, helgra Guds Eingla heilagt Safn, Hrædslu og Sorg burtdrijfi, mig fel og þa, sem mier erú hiaa, mijns JEsu siaalfs i Hendur: verum til Frids, væntandi Lids, Vernd hanns yfir oss stendur.

J Guds Nafni og Otta eunn, eftir hañs Naadar-Ordi, Veidar-Færunum vil eg senn, varpa fraa Skipsins Bordi, þetta mitt Verk, Myskuninn merk, miñ Herra JEsus blessi, veiti hann mier, hvad Villd hanns er, Von mijn og Boon er þessi.

JESUS oss veri ollum hiaa, Auga hanns til vor siaai, Haaska og Ognum hrindi fraa, so Hætta ei granda naai; vort Hiartans Hws, helgi JEsus, hann oss i Fridi leidi, oss kum þess nu, allir med Trw;

Amen!

Amen, sie þad eg beidi.



# ANNAR FLOCKUR.

Innihelldur Heilræda-Vidvorunar-og Bæna-Psalma, Christelegu Lijf-erne Vidvijkiande.

## Gyllene A.B.C. Ur Þýsku utlagt.

Med Himna Lag.

A Einn Gud set þu allt þitt Traust, Ad-stod Mannlegri trwir laust, fast standa Drottins Fyrirheit, finnst valla Trygd um Veralldar-Neit.

B Est þinnar Æru geym og giæt, Gierse-me suer hária mæt, ef hun þier sleppur eitt Sinn fraa, einginn er Von til henni ad naa.

C Hristnum soomir ei saurugt Hial, sier-hvoor sinn Munn vel geyma skal, med Þögn sig einginn fortalad sieck, sielyrdtum jafnann illa gieck.

D Eil alldrei v:d þinn Yfir-Mann, elska skalltu og virda hañ, þañ minne Hætt-ar hæd þu sijst, Hefnd fær Drambsemi jafnann vijst.

EF þu Nægd af Audæfum ætt, aungvañ-
veiginn þig stæra mætt, þeink ad Laan
DRottinns er þad allt, af þvi Reikning-
ſkap ſtanda ſkallt.

FRoomleika, Dygd og Digder med,
dijrara halldt eñ Gull og Fied. Þa He-
imſins Audlegd horfinn er, hvort Siñ gott
Mañord filger þier.

GJef Olmuſu, ef ættu Aud, og aumka
þann ſem lijdur Naud, Gud, i hvors
Hondum Heill þijn er, hann mun lijkt af-
tur giallda þier.

HAfi þier einn til Gooda giort, goodmiñ-
ugur þeſs jafnann vert, Packarlaus
Velgiord, þad ſer reyndt, þvingt fellur
Mañe liooſt og leyndt.

IDinn vertu æ Ungdooms Tijd, Erfide
lær, þar kiemur um ſijd, uppſkiera mun
þad Ellinn fyrr, ſem Æſkann nidur ſædi
fyrr.

Kiært þo einn læti i Eyru þier, ofmiog
honum ei trwa ber, Munnurinn ſtund-
um mælir dætt, meinar þo (kann ſke)

Hiart

Hiartad flatt.

LUckann hvort helldur moot eda med, minnstu ad hafa stødugt Gied, sialldañ er Upphaf Ending lijkt, oft giefur Rauninn Vitni uñ slijkt.

MEd reidum Huga høndla ei neitt, hvad til goods Enda villtu leidt, margur i Brædi Verk þad vann, sem vard þo mest ad ydrast hann.

NEm þu og lær hvad nytsamt er, nær einhver Gott vill kienna þier, hyrda fæir uñ Heimskann Mann, hiñ fær Virding sem meira kann.

OKiendt Mælefni alldrei mætt, wrskurda fliott nie dæma brætt, Klagandans heyrdu Søgn uñ Sinn, sijdann giæt ad hvad talar hinn.

PRakt og Hofmood þier hrind þu fræ, Hefnd færdi morgum Løstur sæ, lijtilætann Lands-Manna Sid, læt þier nægiast ad blijfa vid.

QVilludum Hug, sem sturlar Stygd, stærri skalltu ei auka Hrygd, golldid

mæ

maa verda aftur eins, sem ödrum giorir þraatt til Meins.

R Aupa sem sijst af sialfum þier, þo sijnist nockud giort sem ber, eigid Lof jafnann lucktar vést|, Lijfernid froomt sier hroosar best.

S Jaa þig vel um̃ þvi Verölld er flaa, vondum Selskap þig sneidir hiaa, Gudhræddum hallt þig giarnann ad, gott Nafn þier vijst wtvegar þad.

T Em þig ad elska Æru og Spekt, þo alleir þig ei losi frekt; So öllum lyndi einginn Mann, Ord sijn og Giordir stilla kañ.

V En þig alldrei med Agg og Roog, ad samanndraga Fiaarins-Ploog, þad ferst med Sorg sem fæst med Synd, vid fridsamt Braud þier un og lynd.

U Ppaa Heims Aud og allt hvad er, alldrei þig reid, þad hverfur þier, saa maa þvi halldast hygginn best, sem himnesk Giædi stundar mest.

X Erxes Konungur fordum frekt, forliet sig uppaa Valld og Mekt, fieck þo Mijn-

kun og Sorg til Sanns, sierhvor varist þvi Dæmi hanns.

Y Fir allt fram̃ þu Ottast Gud, elska og vird hans heilog Bod, odrum Raad-hollur eirninn siert, ems sem þu villt ad þier sie giort.

Z Ebaoth Gud oll veit þijn Verk, vert þvi Lastvar hans Makt er sterk, fliootara stilliſt hootud Hefnd, enn hin sem er med Framkvæmd efnd.

Þ Ig lær sialfann ad þeckia riett, þrey-ngst ei helldur i neina Stiett, hvad þu æformar ad þvi gaa, Endirinn hvornig verda maa.

Æ Tijd minnst aa þinn Dauda-Dag, Doom sijdastann og Saalar-Hag, bid jafnann Gud ad giefa þier Raad, good og heilnæm ad stunda Raad.

## Hvad vera eigi Athæfi Christins Mans.

Med Himna Lag.

S Ef þu villt gooda Fridsemd faa, Fiol-mælgi alla varast þa, gladt Hiarta yfir

yfir goodu bijr, giarnann vert jafnann Lyndis hijr.

J Trwunni geym stillt og stødugt Geð, stunda þar hreinann Kiærleik með, eflaus sie Bæninn, Yfirboot, Undanndrættar-laus klaar og fliot.

Yðrandi fyrir þijn Afbrot stert, og við Naatæka jafnann vert, i goodum Verkun sidinn best, illt að fordast vilugur mest.

Fwsléga goodri Hyrting hlijd, Horrits ung með Þoleñmæde lijd, i Laatæde þijnu Lnofleik sijn, lijka sie hæversk Skickun þijn.

Miwkleik i Kieñing merkia laat, mæl við ødra með Spekt og Gaat, vitna það Eina, satt reint sie, uñ sierhvað dæm með Riett-vijse.

Þvi sæmrdare siñstu hier, Fiol-meñeð sem þu meira sier, þvi heilrædare þig hveri-um tiða, honum sem meira liggur aa.

# Eirn Heilræda Psalmur.

Mæ sijngia nær sem: Eilijft Lijfið er æskilegt.

Vilier þu giedjast Gude vel, og goodum Monnum hier, Hreintrwað hafðu

Hiartans-Pel, og heidra hanns Nafn sem ber, Ord Drottinns lær med allri Gaat, ydka mest heita Bæn, Packargiord fagra filgia laat, Foorn sw er einka væn, Hurun vondri þier hrittu fraa, henni gief alldrei Rwm þier hiaa, Illgresis Fræid upp sie rætt, adur enn Frioosgun nær, skie maa, þad sie vid Haaska hætt, ef Hreckia Root-enn græt.

Edri Menn þier i Heidri hallt, hvorn eftir sinni Stiett, Liwslyndi vid þinn Lijka skallt, laata i frami riett, glettstu alldrei vid gamlann Mann, Graahærdum Byrding ber, forsmaa ei helldur Faatækan, sem froo-mur og meinlaus er, moodga ei þann sem mædir Styggd, Medaumkan sijn þeim lijd-ur Hryggd, diarflega ecki odrum laa, Avir-ding hans nie Brest, þu veitst ei hvad þig henda maa, haf Gaat a þier sem best.

Fordastu þaa sem fara med Smaan, Fals-Yrdinn, Hæd og Spie, Laanleysi, Slis og Lucku Raan, Laun þeirra trwi eg sie, Hootfindnenn ill er aungum þeck, at-

hugg

huga jafnann þad, ſkie maa þu hafir Sky edur Fleck, ef ſkyllde þar grenſlaſt ad, Hlaa tur og Kieſkne hæfir ſiſt, Heimſkunnar Merki þad er viiſt, Klaum, Niid og Hroop þu hata meſt, huxa um̃ Maalsheatt þann, froomlegum Sidum Samtal veſt, ſannlega ſpilla kann.

## Pſalmur um̃ gooda Samvitſku.

Ton, Dagur i Auſtri ollum, etc.

HVad verdur fegra fundid, enn Fridur og rooſamt Gied, Angur wr Huga hrundid, Hiartad gladvært þar med? Innbyrdis Elſkann hreina, med Æru i hverium Stad, Heims Eftirlætid eina, eflauſt dæmi eg þad.

Gladur villda eg þu værir, og Vondu hiaa þig ſneid, margt þo til Bels þier bæri, Bakmaalug Twngann leid; ef þinnar Æru giætir, alldrei þu kviida þarft, ſiidar þa Sonnu mætir, ſialf Liigiinn dofnar ſnart.

Laan Heims þig laat ei villa, Luckunni ſpart þu tak, antigna aungvum illa, allra ſiiſt þo aa Bak, oft einn ad odrum finnur,

þad ydkar hann siælfur mest; hvor mæ so hittast svinur, ad hafi ei nockurn Brest?

Heilbrygde, Hiartans Kiæte, hier med Samvitskann good, Ástvina Efterlæti, fyrir utann Trega og Mood, froomt Lijf og farsæll Daude, silgiast med rietiu ad, af hvorium Heimsins Aude, hellst villda eg kioosa þad.

## Uñ Luckuñar Ostødugleika.

Ton, Hvar mundi vera Hiartad mitt, etc.

ALt Heimsins Glisid, Fordilld friid, Fegurdar Priaal og Skraut, sallvallt, mein-slisid, fyrr og sijd, flestollum reynast hlaut, allt eins og Fys i hvassri Hriid, hvorsur snarlega æ Braut, Luckuñar Blysed litla Tijd, logandi, Ovart þraut.

Bloomleg Æskunnar Edlis Art, sem Alldins Jurtir beint, sneña upprunnar blikæ biart, burtvisna ad Kvolldi seint, þeir Glede Brunnar þorna snart, þad hefi eg sied og reynt, Vatns Ræser grunnar hærsa hart, hversur so Tijmenn leynt.

Lijkams Heilbrygdeñ hroosar sier, hall-

denn af ollum kiær, hennar þo Trygdeñ afslepper, oviſſum Tijma nær, Soottar Anstygdenn bræatt ad ber, Bwkſterkum nidurſlær, bleik Dauda-Sygdenn ſaarbeitt ſkier, Soolſogur Bloomſtrinn ſkiær.

Holldſins Frijdleikur, Fegurd klaar, og Fragtenn Lijkamans, ſem Limid Sykur lauſgad ſtaar, Lijfid gledur til Sanns, allt eins og Reikur oll forgaar, Aſyndeñ Hvarma-Ranns, þar liggur bleikur Bloodlaus Naar, burt er Fordilldenn hanns.

Mannſins Lijf hrauſt er allra innſt, J Ædum Hiartans bijr, miog þo Otrauſt ... ſallvallt finnſt, ſliootlega uñ ſier ſnijr, vidſtodulauſt þa varer minnſt, ſem Vindur i burtu flijr, ad Laani hlautſt, þvi laungum vinnſt, litla Stund Æfinn rijr.

Heims Audur ſijniſt Holldſins Art, harla fagur til Saññs, medañ vidklijniſt Kroppenn Skart, kiætiſt Gied ſaavijſs Manns, oftlega tijniſt yfrid ſnart; ymiſt til Sioos eda Lands, Berſnoggur pijniſt Hugz hart, hvar er þa Gengid hanns?

Margur hvor reisti um Froenid fiær, fieck þess ei verid æn, annar med Hreysti Fiaar-Ploog fær, ser hinn med Viel og Raan, eitt El, einn Reysti, ein Bylgia, einn Blær, burt sneiddi allt þad Laan, enn sa þvi treysti er aungvu nær, utann þvi meiri Smaan.

Verelldinn bliid ad Laani lier, lysfugt Gledinnar Hnoss, Asiindum þiid, a Baki ber, beyskañ Hormungar Kross. Luckann dafriidalijkust er, vid lymskann Judas Koss, best væri i Tijd ad siaa ad sier, so hun ei bleckti oss.

Volld, Lieni, Makt og Virdingar, vel margur broo sier ad, Hofdingia Drakt og Skrwda Skar, skrautlega wtsnickad, af skal þad lagt, og ecki par, aktar Daudinn um þad, fraa allri Frakt aan Ordloss bar, wt hvern wr siinum Stad.

Hvad er Heims-Bloomi og giorvallt Glis, sem gyrnist Holldid aa? Reikur, Hiegoomi, Folski, Fis, sinkandi Lauf og Straa, ad mijnum Doomi Slægd og

Blis, ſtær ymiſt til edur fra, Skadſemd-
ar Lioomi, baalad Blis, blyndar ſkioot
þann þad ſea.

Root allra Meina med ſier ber, Mañ-
ordſins Gyrndinn ſnaud, Heliar Slood
beina Bwkuriñ fer, burt fra Makt, Heſd
og Aud, þad eitt alleina ovallt er, ad Ott-
aſt DRottinn Gud; Villtu ſlijkt reyna,
hygg ad hier, hvad hañ þier ſialfur baud.

Laattu þvi fara Heimſins Haatt, Hollds
Metnad Dreiſs og Brial, egnd Daud-
ans Snara er vid Saatt, ad þier mun
dreigid Taal, medañ þu hiara hier eñ maatt,
huxadu um þijna Saal, þar tak a Vara,
þrijtt braatt, Pioodz-Brautiñ Lijffſins haal.

## Um Heimſins vondt Haattalag.

Ton, O JEſu Edla Bloomi, etc.

SEtta er ſtoor i Heimi, hiaalpi oſs
DRottinn kiær, fra Satans Svik-
um geymi, ſo ecki glotunſt vær, reynd
Blijda, Grand grædi, greind Lijda
Vandrædi, leynd vijda Land-Mædi, a
Loft ſier aftur ſlær.

Dyfuls nu Verolld veidir, Viela-Noot morgum skiæd, i Villu og Vanrrw leidir, Vondskann su Þusund-ræd: Ar slijkur, fer, flakir, flaar svijkur, hvor vakir? Haar, rijkur, fier Sakir, sijdar Gud af Hæd.

Otal Illgiordir þroöast, ei tiaair leyna þvi, Tryggd og Trwskapur sovast, takast upp Vielræd nÿ, flest ollum fast spilla, fest Sollum, Last Villa, vest kollum, Kast Krvilla, komid Heiminn i.

Straff sijnist stoort fyrir Hendi, stofnad mieg til þess er, Von a Ressingar-Vendi, i Vext þvi Hættann fer, Volld Synda, gilld granda, Giolld Kinda, fylld standa, Oll blinda, villd Vanda, vesta lioost ei fier.

O JEsu æstkiærast! Jdrunar gief oss Tijd, birt ei þitt Foolk med Hasti; Heyr mig nu Giædskann blijd: Eyd Hættu, Raad riettu, Reidi sættu, hriad gledtu, Neyd bættu, Raad settu, Nauda hiadum Lijd.

Hvorsu

* Hvorsu Heimurinn sie fœnnstur, og Guds Vernd og Varateckt sie þad alleina, er Menn ohætt meigi reida sig uppaa.

Ton, Blijdi Gud, Børnum þiinum ei gleym.

SJartad kaatt, hofum þo gangi styrdt, lioomar breatt, Lioosid þo nu sie myrkt, þetta stutta stendur Stund, Striidid vier reynum, þrijtur Sytar-Lyndis Lund, linar þa Meinum: Hvad er þad, hier sem vier lijdum, hiaa þeim Stad, hvors seinna bijdum? Fliott ber ad, Fagnadar-Tijdum: Heimurinn aumur ei er hann Gud, laatum hann fara, jaa fari hann sinn Veg, med Filgiurum sijnum, laatum hann fara, jaa fari hann sinn Veg, med Filgiurum sijnum.

Þo ætti Mann, alls Heimsins Raad og Vellld, eins er hann, Ovijs hvad skiedur i Kvolld, Laanid, Vinir, Mynt og Ment, Metorda Praktinn, i einu Raunar rænt og lient, rienar þa Maktinn; Saa i giær, sat upp med Kiæti, i Dag ofær, dottinn vr Sæti, aungvu nær, af þvi Medlæti, Kroppur er slippur grafinn i Grof; Hvar

er þaa Broodir, hvar er þaa allt, Hofdingia-Dæmid? Hvar er þaa Brooder, hvar er þaa allt, Hofdingia Dæmid?

Saa sem Traust, setur aa Drottinns Raad, Efalaust er honum fyrirspaad, midt i hættri Meina-Raun, Myskunar nijtur, Dijrdar verda lænud Laun, Lijfid nær þrijtur; HErranns Kross, hanns Barna Soominn, hier skal oss, Hiartans velkominn, dijrsta Hnoss, Diasn, Prydi, Bloominn, swijr Hrijsid kyssum Christs, þad er vor Heidur, þad er vor Prijs, ad þola og trwa, þad er vor Heidur þad er vor Prijs, ad þola og trwa.

Ef eg maa, eigliast minn JEsu þig, hvad mun þaa, helldst meiga bresta mig? Heimur aumur, Giall og Gull, i Glotun þo lendi, Eilijf Sælann oll og full, er mier i Hendi: Hvarma-Taar, hreint af vill þerra, Dijrdar klaar Drottinn vor HErra, Hiartasaar, Sorgin mun þverra, dreifsi og klassi nu Verolld vond, ad þeya, þreia og þola vel, þad ysirvinnur, ad þeya, þreia og þola

vel,

vel, þad yfirvinnur.

## Verallðar Þecking, mūn Heimsins Brigðlyndi

Ton, Oll Lucka Gleri lijkust er, etc.

HUð bid eg nu að giefa mier Rad, og greida minn Veg til besta, hañ einn mun veita Hiaalp og Daad, hvad sem mig kann ad bresta, þo Þorfinn sie bædi þrong og braad, og þyki oft Bootum fresta, ad Drottinns Myskun, Milldi og Naad, mitt skal eg Traustid festa.

Mañleg Adstod er misjafnt trygg, margir sa slijkt ad reyna, Trwskapar Lundinn laus og styg, Leid geingur þeigi beina, velltur aa ymsa Hlid um Hrigg, Hamingiu Laanid eina, þa i Naud biarga helldst eg hygg, hægt muni verda ad greina.

Lofsins sæ eg nu fullreint þad, hvad fallvollt er Heimsins Blijda, bindur sig ei vid Stund nie Stad, Stilling aungva kann lida, margann ber sama Brunni ad blindingur Luckann frijda, einginn fær siaalfur aakvardad, eftir hverju skal bijda.

Þeir sem mier voru Vinir fyr, vel þar gieck einu=sinni, þeigiandi sneida þvers. um Dyr, þeim er eg lidin̄ wr Min̄i; Ef allir sigla sama Byr, Selskap er Von Man̄ finni, hinn maa vel bijda i Hofnum kyrr, sem hiellt Mootvidrid inni.

Þar sem eg hugdi Hælis mier, i Hornungmin̄i ad leita, ad eingu Athvarfi ordid er, Ull sookt i Hws til Geita, Root sw oft Avoxt raman̄ ber, sem rækstud er med Sveita, heppinn þykist saa sialfum sier, af Sundinu kann ad fleyta.

Gott er ad glediast goodum med, Gamans og Lids ad niioota, breatt kan̄ þo Selskaps Brooderned, burt sem Vatns=Straumur flioota; Þa Heilsan̄ brestur, Heill og Fied, Horn=Augum Vinirnir skioota, eigid Gagn hvijlir esst aa Bed, enn Astinn leggst til Foota.

Margskonar Angist margann skier, misjafnt vill oft aabiaata, af audmiwku Giedi og Þanka þier, þad vil eg Drottinn jaata; Verdskulldan mijn eg veit þad

er,

er, verst slijks i eingann Maata, nu bid eg þig Naudstoddum mier, Naad og Vægd frami laata.

Einmana stend eg uppi þvi, aungvum hef til ad seigia, imsum Hormungum halldinn i, hvoria Stund mæ eg þreya, æ Drottinn skal mijn Naudsyn nij, nu og jafnann sier skeya, læt mig af ollu Fææri frij, i Fridi, minn JEsu! deya, Amen.

## Bænar Vers i þessa Heims Andstreymi.

Ton, Ef Gud er oss ei siaalfur hia, etc.

Drottinn laat mig i Heimi hier, haga mier Christilega, so eg riett jafnañ þiooni þier, og! þocknist alla vega; Hræsni, Agyrnd og Ohlijdne, alldrei i mijnum Hüga sie, forda mier Tiooni og Trega.

Gudlausra Maña Glæpa Sid, gief þu eg varast kinni, halld þu mier Sannleiks Veiginn vid, Viel Heims mig einginn gini, hostug Ranglaatra Ressing braad, riett laat alldrei til mijn naad, minnst mijn i Myskun þinni.

Fraa Hiartans Blindne og Hardydge, HErrann JEsus mig geimi, af allri hreinsud Saurgan sie, Saal mijn i þessum Heimi, Hugskot og Eyrun opna þu, ebl med mier Hlijdni Von og Trw, Ast þijn mier alldrei gleymi.

Þess eins af Hug og Hiarta eg bid; Herra minn, Dijrdar-sæll! hreinann Lærdoom mier halltu vid, Hollds Skynsemd mig ei tæli, hvorki Mannanna Valld nie Villd, Vinatta blijd, nie Heiptin gilld, fraa þijnum Sannleik fæli.

## Bænar Psalmur mooti þeim andlegu Ovinum.

Ton, Ovinaüleg Borg er vor Gud, etc.

LEid þu mig Gud, og laat mig ei, leidast af sialfs mijns Pootta, medann i Heimi hier eg þrei', halld þu mier vid þin Otta, hvört eg geing ut da inn, aña stu, JEsu min, Lijf mitt, Samvitsku, Saal, Sioon, Heyrn, Ord, Verk og Maal, Flærd Dioffuls rek aa Flootta.

Lijfslega eg þier legg aa Hond, Lijf og Hell-

Heilbrigde mijna, Lijkamann tak og einnig Ond, undir Krwfesti þijna, þu att, ja, eigdu hier, allt Walld og Raad a mier, oll er Umhyggia mijn, af mier komin til þijn, so læt eg Sorgir dvijna.

Hvad skal Manneskiañ mogla þo, mooti Skapara sijnum, Adams Fall þetta undirbioo, med allskyns Sot og Pijnum: Jesus allt bætir Vol, burttekur Sorg og Kvol, honum a Hond mig fel, hann leysir Prautir vel, hægir þad Huga mijnum.

Mijn Saal hvad villtu mæla þa, mooti Skickun þijns Herra? Arf-Syndiñ gamla eykur Praa, og enn er forþient verra, af þvi eg allt of-frekt, a jook þaa fornu Sekt; so munu i Heimi hier, Hollds Prioostsku Kraftarner, hlioota ad hiadna og þverra.

Endurlausnareñ Lof sie þier, Lausn fyrer Ondu minnar, leystur fraa Dauda lioost eg er, Lausn fyrir Pijnu þinnar: Leystu Lausnarenn kiær, Lastanna Flækiur þær, sem Saal mijn situr i, Sorg hefi eg, Herra, af þvi, læt mig Lausn Synda finna.

Leystu

Leystu mig JEsu, Lostum frä, Lijf mitt ædur eñ dvijnar, Lausuiñ blessada leys mig þaa, looft fyrir Undir þijnar: Leys mig Lausnariñ trwr, og lina Mootgaangs Skwr, þegar þier þikir Maal, þier fel eg Lijf og Saal, Ord og Athafnir mijnar.

Saaluhiaalpariñ sæll JEsu, Saal mijn þier ætijd fagnar, Saalunni Mykun sijndir þu, Saalinn þier Lofgiörd magnar: Saal minni send þu Lid, Saala mijn þess þarf vid, Saalinn er siwk og mood, Saal uñ þitt blessad Blood, er Saalunni sætast gagnar.

Naudhiaalpari minn Herra hijr, hiaalpa nu Præli þijnum, Hiaalprædis blessud Heillinn dijr, hiaalpa þu Veikleik mijnum: Hiaalpar-laus hiari eg hier, ef hiaalpar þu eigi mier, hiaalpa moot Holdi og Heim, hiaalpa moot Ovin þeim, sem veldur Wijtis Pijnum.

Lijfgiafari minn og Lyknenn fijn, Lijfenu virdstu vægia, Lijfs-Fader ertu, Lijfe mijn, Lijfs Meinum giør þu hægia, Lijf og Saal

lof

